Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

STÉTTABARÁTTAN
VIKUBLAÐ
MÁLSSVARI
VERKAFÓLKS!

Ársáskrift..............3000kr.
Hálfsársáskrift.........1800kr.
Ársfjórðungsáskrift.....1000kr.
Baráttuáskrift (gildir fyrir heilt ár)..........5000kr.

19. tölublað — Þriðjudagur 24. maí. — 6. árgangur — Verð kr. 60.

# Hafnarverkamenn riðu á vaðið

Manudaginn þann 16. maí foru allir hafnarverkamenn í Reykjavik fyrirvaralaust í skæruverkfall, til að leggja aherslu a kjör sin. Verkfallið hofst a hadegi og toku a sjötta hundrað verkamenn þatt i þvi, þratt fyrir að verkfallið væri ologlegt samkvæmt vinnulöggjöfinni. Undanfarnar vikur hafa verkamenn við hafnarvinnu rætt mikið um að beita aðferð skæruverkfallanna, gagnstætt þeim aðferðum sem verkalyðsforingjar ASÍ hafa beitt. Þetta verkfall kom atvinnurekendum algerlega a ovart og hotuðu þeir þvi i fjölmiðlum þann sama dag að lögsækja Verkamannafelagið Dagsbrun og einstaka verkamenn sem þatt toku i verkfallinu. En þratt fyrir hotanir Vinnuveitendasamtakanna um malsokn og skaðabætur fra verkfallsmönnum lögðu fleiri verkamenn ut i skæruverkföll. Hafnarverkamenn i Hafnarfirði fylgdu dæmi starfsbræðra i Reykjavik og lögðu fyrirvaralaust niður vinnu a hadegi daginn eftir. Enginn skoraðist undan og synir það vel stettvisa samstöðu verkamanna. Dagsbrunarmenn sem vinna við mjolkurdreifingu a Stor-Reykjavikursvæðinu stöðvuðu utkeyrslu a mjolk að morgni 20. mai fram að hadegi (sja ur barattunni siðu 2). Þa ætluðu verslunarmenn að loka verslunum það sem eftir væri dagsins. Það tokst ekki sem skyldi, vegna svika stjornar VR. i Reykjavik og lelegrar stettarsamstöðu margra verslunarmanna. Þo voru margir ur þeirra hopi sem stoðu sig með pryði. En hver er svo avinningurinn af þessum aðgerðum sem að framan greinir? I vikunni lagði sattanefnd rikisins fram tilboð sem fol i ser 21,8% kauphækkun til verkamanna og visitölutryggingu litils hluta launanna. Þessu tilboði hafnaði ASÍ og atvinnurekendur firrtust við, vegna þess að þeim þotti tilboðið of hatt. Krafa ASÍ um 113 þusund krona lagmarkslaun þyðir tæpa 50% kauphækkun þannig að þetta sattatilboð er hlægilega lagt. Við verðum að hafa það i huga að ef verkafolk a að lifa af dagvinnutekjum sinum þarf það að hafa hatt í 200 þusund í manaðartekjur. Það er mikilvægasta krafa verkafolks að fa lifvænleg laun fyrir dagvinnu. Skæruverkföllin hafa synt okkur fram a að verkafolk er tilbuið að leggja ut í barattu, þratt fyrir hotanir Vinnuveitendasamtakanna um refsiaðgerðir. Þess vegna er það mikilvægt að verkafolk myndi verkfallsnefndir a vinnustöðum og byggi þannig upp sitt eigið skipulag fyrir barattuna. Við vitum að við getum ekki treyst a verkalyðsforingja ASÍ, það sest best a frammistöðu þeirra undanfarin ar. Þeir eru ekki að semja um sin kjör og aldrei hafa þeir sett kröfuna um lifvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku a oddinn i samningaviðræðum við atvinnurekendur. Verkafolk! Það gætir enginn hagsmuna okkar nema við sjalf. Myndum verkfallsnefndir a vinnustöðum, til að skipuleggja barattuna og leggjum ut i skæruverkföll, að öðrum kosti munum við halda afram að vera vinnuþrælar, langt fra þvi takmarki að lifa af 8 stunda vinnudegi.



Eins og sja ma af myndunum her að ofan er tomlegt um að litast niður við höfn þegar mannskapurinn hefur lagt niður störf til að aretta kröfugerð sina. Her mega atvinnurekendur sja svart a hvitu hverjir það eru i raun og veru sem bera uppi þetta þjoðfelag með vinnu sinni.

# Velheppnuð fjöldaaðgerð

Samtök herstöðvaandstæðinga gengust fyrir kröfugöngu fra Straumsvik niður a Lækjartorg a laugardaginn var. Mikill fjöldi tok þatt i aðgerðunum og var stemningin i göngunni mjög goð. Þegar safnast var saman við Straumsvik um morguninn, voru þar rumlega 1000 manns mættir og þar flutti Björgvin Sigurðsson fyrstu ræðuna i göngunni. Siðan var haldið af stað og um hadegið var haldinn utifundur a Thorsplani i Hafnarfirði. Fundir voru lika haldnir i Kopavogi, a tuninu milli Suðurlandsbrautar og Miklubrautar og loks niður a Lækjartorgi. Margir ræðumenn og skemmtikraftar komu fram og tokust fundir þessir með agætum. Þegar komið var niður a Lækjartorg, mun fjöldi þatttakenda hafa verið orðinn um 10.000 manns, en heldur fækkaði, þegar leið a fundinn.

Straumsvikurgangan synir mjög glöggt, að barattan gegn veru Islands i NATO og bandariska hernum a Miðnesheiði a geysilegt fylgi meðal islenskrar alþyðu. Engin fjöldahreyfing a landinu er fær um að safna saman slikum fjölda til aðgerða engin fjöldahreyfing hefur i dag betra skipulag, en samtök herstöðvaandstæðinga.

## Mikilvægi þess að berjast gegn baðum risaveldunum.

Barattu herstöðvaandstæðinga ma undir engum kringumstæðum einangra við barattuna gegn bandarisku heimsvaldastefnunni. Það er nauðsynlegt að beina sjonum að rsiaveldinu i austri og heyja ovægna barattu gegn þvi a sama hatt. Raunar er það svo, að barattan gegn bandariska heimsveldinu hlytur að vera meginatriðið a Islandi, en það ma ekki leiða til þess, að við lokum augum okkar fyrir hættunni fra Sovetrikjunum.

Þo að Sovetrikin skryði sig með sosialisma og "friðsamlegri sambuð", sanna verkin að þau hafa allt annað en frið eða sosjalisma i hyggju. Innras og ihlutun þeirra i Zaire er ferskt dæmi um raunverulega utanrikisstefnu Sovetrikjanna. Við herstöðvaandstæðingar höfum verið sakaðir um að vilja gera landið "varnarlaust" og þessum asökunum verðum við að svara. Við verðum að geta svarað þvi, hvað við ætlum að gera þegar bandariski herinn er farinn og synt fram a, að herstöðvaandstæðingar eru ekki aðeins skeleggasti andstæðingur bandarisku heimsvaldstefnunnar, heldur einnig sovesku sosialheimsvaldastefnunnar og hernaðarbrölti og striðsundirbuningi yfirleitt. Sa sem ræðst gegn bandarisku heimsvaldastefnunni en þegir um þa sovesku, getur ekki með sanni sagt að hann se fjandmaður heimsvaldastefnunnar. Þvi hann er aðeins motfallinn heimsvaldastefnu eins akveðins rikis.

## Mikilvægi aframhaldandi barattu.

Straumsvikurgangan hefur verið haldin og hun heppnaðist vel. En við getum samt sem aður ekki sest niður og haft hægt um okkur, bara vegna þess.

Nu verður að herða barattuna og skipuleggja andstöðuna gegn heimsvaldaihlutun a Islandi enn betur. Serstaka aherslu verður að leggja a uppbyggingu og styrkingu hverfahopanna, þvi þeir eru lifeiningar samtakanna. I þa safnast hinn virki kjarni barattumanna og þeir eru framkvæmdaaðilinn i öllum aðgerðum. Þess vegna verður að leggja meginaherslunu a styrkingu hverfahopanna og aukna starfsemi þeirra.



Útifundurinn a Lækjatorgi.





Aðgerðir Herstöðvaandstæðinga 21. mai sina að samtök herstöðvaandstæðinga eru sterk fjöldahreyfing gegn heimsvaldastefnu.

Það ma ekki leggja meginþunga a nam, þott nam se nauðsyn, starfið og barattan verður að vera i fyrirrumi. Það var sannarlega galli, að hverfahoparnir skyldu ekki vera auglystir rækilega upp i Straumsvikurgöngunni og lögð ahersla a að skra folk til starfs fyrir sumarið. Miðnefnd herstöðvaandstæðinga ætti að beina athygli sinni meir að starfinu i grunneiningum samtakanna.

LEIÐARI

# Skæruverkföll í stað allsherjarverkfalla

Staðan í samningamálunum einkennist nú af mikilli spennu. Tillögur ríkisvaldsins eru engin úrbót fyrir verkafólk og atvinnurekendur eru fyrir sitt leyti óánægðir með þær. Þeir einu, sem virðast geta samþykkt tillögur ríkisins, eru foringjar ASÍ. Það sýnir glögglega, að ASÍ-forystan er reiðubúin til að ganga á bak þeirra loforða, sem hún hefur gefið

verkalýðsstéttinni, um 100 þúsund króna lágmarkslaun. Gegn þeim refjkanda og sviksemi sem ASÍ-forystan hefur sýnt, síðan að samningar hófust, hefur verkafólk nú haldið út á braut sjálfstæðra aðgerða, með þeim skæruverkföllum, sem framkvæmd hafa verið í Reykjavík, Hafnarfirði, Keflavík og víðar.

Um þrjár leiðir er að velja. Þrjár meginstefnur eru að kristallast í baráttunni. Í fyrsta lagi atvinnurekendur og ríkisvald þeirra, sem ætlar sér að knýja fram kjaraskerðingar og áframhaldandi vinnuþrælkun. Í öðru lagi forysta ASÍ, sem hefur sett fram kjörorðið 100 þúsund króna lágmarkslaun, en hugsar sér ekki til hreyfings, til að ná slíkri kröfu fram og er jafnvel reiðubúin að ganga inn á samninga við atvinnurekendur á grundvelli þeirrar tillögu sem ríkisstjórnin hefur lagt fram. Í þriðja lagi er svo afstaða verkafólksins sjálfs, hins vinnandi fjölda.

Hann hefur hafnað bæði reikanda ASÍ-forystunnar og kjaraskerðingum atvinnurekenda og ríkisstjórnar. Til þess að undirstrika baráttuvilja sinn og kröfur um launahækkanir og bætt kjör, hafa verkamenn á höfninni í Reykjavík, Hafnarfirði og víðar haldið út á braut sjálfstæðrar skipulagningar baráttunnar. Þýðing þessara skæruverkfalla er mjög mikil, því hún sýnir að verkafólk er hægt og fálmandi að halda

út á brautir stéttabaráttunnar og snúast gegn stéttasamvinnustefnu ASÍ-forystunnar. Þessa hreyfingu verður að efla með öllum hætti, því hún boðar nýtt skeið í skipulagningu stéttarinnar.

Skæruverkföllin eru ekki aðeins mikill ógnvaldur gegn atvinnurekendum, sem þegar hafa haft í hótunum um málssókn og frystingu samningaviðræðna, heldur einnig merki um, að verkafólk treystir ekki lengur á "lokaða samningafundi" forystunnar með atvinnurekendum. Þau eru merki um, að hinn almenni félagi verkalýðshreyfingarinnar er að koma fram á sjónarsvið baráttunnar, hvort sem forystan fer fram á það eða ekki. Forysta verkalýðshreyfingarinnar vill helst af öllu, að verkafólk haldi sér á mottunni, meðan samningar standa yfir. Hún kallar aðeins á það til allsherjarverkfalls, þegar samningar sigla í strand og árangurinn verður sá, að atvinnurekendur óttast allsherjarverkfallið ekki, heldur búa sig undir það eins og sumarfrí - árvisst sumarfrí. Þess vegna er samningstímabilið látið renna út í maí, þegar vertíðir standa ekki yfir og tíminn til baráttu er óhagsstæður verkalýðnum. En skæruverkföllin eru enn sem komið er óskipulögð og einangruð og enn er langt í land, með að þessi baráttuaðferð hafi náð til stórra hópa verkalýðsins.

Verkafólk verður að skipuleggja baráttuna betur, velja verkfallsnefndir á vinnustöðunum til þess að geta gert baráttuna áhrifameiri og knúið atvinnurekendur á knén. Við höfum framleiðsluna í höndum okkar og getum stöðvað hana, þegar okkur lystir.

Við verðum líka að notfæra okkur þetta vopn til þess að beygja mótstöðu atvinnurekenda og ná fram úrbætum á lífskjörum stéttarinnar. Baráttan fyrir 40 stunda vinnuviku á lífvænlegum launum, er alls ekki krafa um sérstaka krónutöluhækkun, heldur krafa um að dagvinnan nægi til framfæris - að vinnudagurinn verði styttur. Hvort sem ríkisvaldið og atvinnurekendur velja að hækka launin beint eða minnka skatta og skyldur á verkafólki, verður niðurstaðan að verða sú, að dagvinnulaunin nægi til framfæris. Vopnið til þess að ná þessari kröfu fram, er sjálfstæð skipulagning verkafólksins - skæruverkföllin. Þess vegna verðum við að skipuleggja þau miklu betur, kjósa framkvæmdanefndir á vinnustöðunum og hafa samband milli þessara framkvæmdanefnda til þess að geta beitt vinnustöðvunum á hinum ýmsu vinnustöðum. Skipuleggjum baráttuna - skæruverkföll í stað allsherjarverkfalls.

## HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?

Miðstjórn: Pósthólf 1357. Reykjavík, einnig í síma 27810
Ritstjórn Stéttabaráttunnar og Rauða Fánans: Pósthólf 1357, sími 27810 á opnunartíma Rauðu Stjörnunnar Lindargötu 15.

Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38.
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson Hellisbraut 10. Hellissandi.
Ísafjörður: Kristinn Karlsson Fjarðarstræti 7

Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjarvíkurvegi 24.

Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallagötu 40c Keflavík.

# „Fundur um klofninginn í vinstrihreyfingunni"

Sunnudaginn 8. maí sl. gengust EIKm-l fundi og var fundarefnið vinstri hreyfingin á Íslandi og klofningurinn innan hennar. Gestur fundarins var félagi Arild Johansen frá Kommunistaflokki Noregs m-l.

Í byrjun fundarins rakti Ari T. Guðmundsson form. EIKm-l stuttlega þróun vinstri hreyfingarinnar á Íslandi s.l. 6-7 ár. Komu fram í málflutningi hans nokkrar villur, varðandi forsögu Kommunistaflokks Íslands m-l, sérstaklega þegar hann sagði að stofnun EIKm-l hefði verið fyrsti vísirinn að uppbyggingu nýs kommunistaflokks, hann gleymdi því að KSML höfðu verið til í tæp 3 ár.

Eins og stóð til í fundarboði þá átti að tala um vinstri hreyfinguna á Íslandi og krýfja klofninginn innan hennar til mergjar. Það kom því mönnum mjög á óvart að aðalræðumaður fundarins, norski félaginn talaði hartnær í einn og hálfan tíma um tvær Baudeista-klíkur í Noregi sem töldu í mesta lagi 80 manns samanlagt, en hann minntist ekki orði á vinstri hreyfinguna á Íslandi, reyndar sagði hann í sínum málflutningi að hann hefði verið sendur af miðstjórn AKPm-l til þess eingöngu að tala um Baudeismann í Noregi og ekkert annað. Í alm. umræðum kvaddi Gunnar Andresson sér hljóðs og sagði m.a. að marx-leninistar ættu að leggja niður allar smáerjur og taka upp sameiginlega baráttu gegn höfuðóvininum, borgarastéttinni og helstu málsvörum hennar innan verkalýðshreyfingarinnar, endurskoðunarsinnanna í Alþýðubandalaginu. Þetta væri sú barátta er bæri að leggja alla áherslu á annars myndi enginn árangur nást í baráttunni. Var gerður góður rómur að málflutningi G.A.

Vegna alls þessa missti fundurinn, því miður algerlega marks ef frá er talin ræða G.A. og fundarmenn fóru til síns heima litlu fróðari um klofninginn á vinstri vængnum á Íslandi, en þar kom náttúrulega í staðinn að þeir voru mikils fróðari um klofninginn í Noregi og er það vel.

Framhald af baksíðu.

# 1.maí ræða formanns Kommúnistaflokks Íslands

Þessari þróun verður ekki snúið nema að hinn almenni félagi í verkalýðsfélögunum taki upp baráttu gegn uppkeyptri forystu verkalýðsfélaganna. Á síðasta ári sáum við þess nokkur merki að verkafólk er að taka upp baráttu gegn svikum forystunnar. Það má benda á baráttu sjómanna á síðastliðnu ári gegn bráðabirgðalögunum alræmdu og um leið svikurunum í forystuliðinu. Afgreiðslustúlkur í brauða-og mjólkurbúðum háðu einnig harða baráttu gegn svikulli forystu og stöðugt verða raddirnar sterkari sem hafna loddaravinnubrögðum forystunnar. Fjölmargir verkamenn og konur eru nú að fá æ meiri áhuga fyrir framtíð verkalýðshreyfingarinnar. Fólk er í auknum mæli að gerast þátttakendur og gerendur baráttunnar en ekki bara þolendur. ASÍ-forystan er meðvituð um þessa þróun og þeir pólitísku flokkar sem nú eru öflugri innan verkalýðshreyfingarinnar eru staðráðnir í að láta þá hreyfingu sem nú er að rísa, koma sér í ráðherrastólana. Við verðum því að varast þá fölsku verkalýðssinna sem sverja baráttunni hollustu með vörunum en svíkja svo við fyrsta og besta tækifærið. Það er alltaf vissara að dæma menn eftir verkunum en ekki eftir yfirlýsingunum sem þeir gefa um sjálfa sig. Þess vegna vitum við að þegar ASÍ-forystan setur fram 30% eða 100 þús kr. kröfu meinar hún 6-8% eða 2-3 þúsund. Þetta hafa verk þessara manna kennt okkur. Þegar þeir gagnrýna ríkisstjórnina fyrir kjaraskerðingarnar eru þeir að fara fram á stuðning til að setjast sjálfir að kjötkötlunum. Þeir gagnrýna atvinnurekendur fyrir sukk og fjárdrátt en þegja yfir því að þeir stunda sjálfir brask. Þetta eru þeir fals-verkalýðssinnar sem nú hrópa hæst um mikilvægi þess að allir taki virkan þátt í baráttunni, en jafnframt hafa þeir gert hinn almenna félagsmann að engu öðru en nafni á félagsskránni, sem að vísu greiðir félagsgjöld sín reglulega, en er óvirkur að öðru leyti. ASÍ-forystan æpir sig hása um mikilvægi aukinnar baráttu verkalýðsins, en það eina sem ASÍ ætlast í raun og veru til af verkalýðnum er að hann hylli þá og tilbiðji þegar þeir þurfa á slíku að halda. Þess utan vilja þeir sem minnst af honum vita. Í baráttu okkar fyrir bættum kjörum verða því óhjákvæmilega á vegi okkar alls konar framagosar og bittlingasnatar sem nota ætla sér hreyfinguna sjálfum sér til framdráttar. Gegn slíku getur hreyfingin aðeins varist með því að hinn almenni félagi taki virkan þátt í baráttunni. Í komandi verkföllum gefst verkafólki tækifæri til að taka vissan þátt í baráttunni. Þetta tækifæri má ekki láta ónotað og ef það tekst þá megum við ekki missa þráðinn niður að nýju, því að virk þátttaka fjöldans er eina tryggingin fyrir sigri.

Skipuleggjum okkur og höfnum fals-verkalýðssinnunum!

Gerum verkalýðsfélögin að raunverulegum baráttutækjum!

Krefjumst lífvænlegra launa fyrir 40 stunda vinnuviku!



## ÚR BARÁTTUNNI

Trúnaðarmannaráðið í Straumsvík brýtur gegn yfirvinnubanninu.

Þegar yfirvinnubannið kom til framkvæmda 2. maí lýsti trúnaðarmannaráðið í álverinu í Straumsvík strax yfir stuðningi við það, þó með þremur undantekningum: 1) þar sem um umsamda yfirvinnu er að ræða, 2) einn maður má starfa með kallvaktarmanni. Í yfirlýsingu, sem trúnaðarmannaráðið birti á vinnusvæðinu segir í lok hennar, að brot gegn þessu yfirvinnubanni, fyrir utan ofangreindar undantekningar, skoðist sem tilræði við verkalýðshreyfinguna í yfirstandandi kjarabaráttu.

Stuttu eftir að þessi yfirlýsing birtist, tóku nokkrir starfsmenn eftir því að aukavinna hafði verið leyfð á svonefndu deigluverkstæði. Þar sem aukavinna á þessu verkstæði var óleyfileg, samkvæmt áðurnefndu plaggi, var þegar í stað haft samband við trúnaðarmannaráðið. En viti menn. Í ljós kom, að trúnaðarmannaráðið hafði veitt undanþágu til starfa á deigluverkstæðinu - og reyndar víðar eins og seinna kom í ljós. Trúnaðarmannaráðið hafði sem sagt fyrst orðið til að brjóta gegn eigin samþykkt. Ástæðuna fyrir þessum undanþágum sögðu trúnaðarmennirnir vera, að annars kæmu óþægindin vegna þessa verst niður á okkur sjálfum. Þetta er einkennileg röksemdarfærsla. Yfirvinnubannið er gert til þess að það komi við kaunin á atvinnurekendum. Sé eitthvert tæki í ólagi, þá á það ekki að þurfa að koma niður á mannskapnum, því sé aðstaða til að vinna ákveðið verk ekki fyrir hendi, þá á einfaldlega ekki að framkvæma það. Því var einnig borið við af hálfu trúnaðarmannaráðsins sem afsökun, að samningar hjá verkafólki rynnu ekki út fyrr en 1. júní og þá mætti kannski athuga með aðgerðir. Þó svo sé er stuðningum við verkamenn á " alm. vinnumarkaði " mjög mikilvægur í yfirstandandi yfirvinnubanni í álverksmiðjunni.

O

Verkfall hjá mjólkursamsölunni.

Yfirvinnubannið hefur verið framkvæmt nær alls staðar. Það hefur að sjálfsögðu mætt andstöðu af hálfu atvinnurekenda, sem græða vel á yfirvinnu verkamanna, þó þeir verði að borga þeim fyrir þá tíma, 50% til 100% hærra kaup. Margar tilraunir hafa verið gerðar til að brjóta þetta yfirvinnubann á bak aftur, og notað þá bæði hótanir og mútur. Í mjólkursamsölunni í Reykjavík var t.d. seld mjólk til kaupmanna í gegnum verslun er snýr að Laugaveginum. Þeir sem stóðu að þessum aðgerðum voru sölustjórinn og tveir aðrir starfsmenn. Bílstjórarnir svöruðu þessu föstudaginn 20. maí með því að leggja niður vinnu og var samstaða þeirra alger og neyddust forráðamenn samsölunnar að biðjast opinberlega afsökunar. Þessi samstaða sem bílstjórarnir sýndu er reyndar aðeins framhald á þeirri vaxandi samstöðu sem hefur verið að skapast meðal þeirra undanfarið. Hafa þeir í krafti þessarar samstöðu náð fram kröfum um bætta vinnuaðstöðu.

# Þegar pólski verkalýðurinn reis upp

Lauslega þýtt úr Arbeiðið blað Oyggjaframa í Færeyjum og Gnistan, málgagni SKP

Í desember 1970 reis hin kúgaða pólska verkalýðsstétt upp, til baráttu gegn fasisku ríkisstjórninni, sem kallar sig kommúníska, eins og aðrar stjórnir í A-Evrópu sem styðjast við vald nýju zaranna í Kreml.

Með kröfugöngum, verkföllum og beinum hernaðaraðgerðum neyddi verkalýðsstéttin pólsku ríkisstjórnina til að falla frá gífurlegum verðhækkunum sem voru allt upp undir 100% á sumum nauðsynja

Verkafólk í meira en 80 verksmiðjum fór í verkfall. Það stærsta var í Zeran -bílaverksmiðjunum þar sem 15.000 voru í verkfalli. Í Ursus- dráttavélaverksmiðjunum þar sem 20-25.000 verkamenn vinna voru 5.000 í verkfalli. Verkamenn úr þeim verksmiðjum stöðvuðu hraðlestina á milli Parísar og Varsjár, með því að rífa upp járnbrautarteina. Þeir sögðu að lestin fengi ekki að fara áfram fyrr en fallið yrði frá verðhækkunum. Þá átti að reyna að nota áætlunarbifreiðar, en bílstjórarnir neituðu að keyra. Í Radom kveikti verkafólkið í skrifstofum hins endurskoðunarsinnaða kommúnistaflokks og í götubardögum verkfallsmanna við her og lögreglu létust 17. Vopnuð barátta gegn verkfallsmönnum átti sér einnig stað í Gídinía, Gdánsk og Eisini.

Verðhækkanirnar sem áttu sér stað orsökuðust af þeirri efnahagslegu kreppu sem hrjáði pólska auðvaldið. Pólland sem eitt sinn var sosíalískt ríki hefur átt við reglubundnar auðvalds kreppur að stríða, eftir að kapítalískir framleiðsluhættir voru teknir upp með sigri endurskoðunarstefnunnar í Sovétríkjunum og A-Evrópu. Pólska ríkisstjórnin hefur tekið stór lán bæði í V-Evrópu og Sovétríkjunum og námu þau 8 milljörðum dollara árið 1970. Stór hluti af framleiðslutækjum Póllands er nú í höndum sovétskra og v-evrópskra auðherra. Þess vegna eru reglubundnar auðvaldskreppur eins og tröllriðið hafa V-Evrópu, staðreynd í Póllandi og öðrum endurskoðunarsinnuðum ríkjum.

Eins og í öðrum auðvaldsríkjum reynir borgarastéttin í Póllandi að velta kreppunni yfir á verkalýðinn með verðhækkunum. En vegna harðvítugrar baráttu pólska verkalýðsins tókst það ekki. Þá greip ríkisstjórn Gíreks til aðferða sem við könnumst vel við. Smáhækkanir á nauðsynjavörum komu af og til og gefin voru loforð um skattalækkanir. Verðbólgan var látin skerða kaupmáttin hægt og bítandi.

Vegna baráttu verkalýðsstéttarinnar hefur pólska ríkisstjórnin hert þrælatök fasismans, verkamenn sem tóku þátt í verkfallinu fengu ekki vinnu og margir fengu harða fangelsisdóma. Þetta kalla endurskoðunarsinnarnir að halda uppi "sósíalískum aga", í ríki þar sem á að heita að verkalýðsstéttin sé við völd. Borgaralegir fjölmiðlar í V-Evrópu nota atburðina í Póllandi til þess að sverta kommúnismann og segja:"Svona er það að lifa í kommúnísku ríki". Þvert á móti halda blöð marxista-lenínista því fram að fasisk borgarastétt sé við völd í Póllandi og barátta verkalýðsstéttarinnar sé barátta fyrir endurreisn á alræði öreiganna.

Uppreisn polsku verkalýðsstéttarinnar er lýsandi dæmi um baráttuna gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni og leppstjórn hennar í Póllandi.



Frá uppreisn pólskra verkamanna í desember 1970. Herinn barði uppreisnina niður . Myndin synir skriðdreka fyrir utan Monopol-hotelið i Gdansk.



Proletariusze wszystkich krajów, łączcie się!

CZERWONY SZTANDAR

ORGAN KOMITETU CENTRALNEGO KOMUNISTYCZNEJ PARTII POLSKI

Nr. 1 Warszawa, kwiecień 1976 rok Rok X

Mynd af haus Rauða fánans í Póllandi.

## Um pólska kommúnistaflokkinn marxista-lenínista.

Eftir að endurskoðunarstefnan varð allsráðandi í pólska kommúnistaflokknum og auðvaldsskipulagið var endurreist hafa sannir kommúnistar hafið pólitíska baráttu gegn endurskoðunarstefnunni. Þessir félagar hafa myndað nýjan flokk Kommúnistaflokk Póllands m-l sem ætlar sér að steypa hinni nýju borgarastétt og endurreisa alræði öreiganna. KFPm-l gefur út málgagn sem heitir CZERWONY SZTANDAR eða Rauði fáninn. Flokkurinn er bannaður og starfar því leynilega þrátt fyrir þúsundir njósnara fasistalögreglunnar. Þann 26. júní 1976 gaf miðstjórn KFPm-l út yfirlýsingu vegna verkfallanna í desember 1970 og baráttunnar síðan. Hún er svohljóðandi:"... Fyrir rúmum fimm árum réðist ráðandi stétt í Póllandi á verkamenn í verkföllum og kæfði baráttuna með blóði..."

Árið 1970 reyndi Gomulka að stela 15.000 milljónum zloty úr vösum verkafólks með verðhækkunum en hann fékk verðuga ráðningu hjá verkafólki. Síðan hefur Gírek sem tók við völdum reynt að stela 97.000 milljónum zloty frá vinnandi fólki og skerða þannig kaupmáttinn um 16%. Það hefur ekki tekist enn vegna harðvítugrar baráttu verkalýðsstéttarinnar. Síðar í yfirlýsingunni er verkafólk hvatt til baráttu gegn kjaraskerðingunum og fyrir endurreisn alræðis öreiganna. Að lokum segir:"...Verkalýðsstéttin verður að byggja upp sterkan byltingarflokk fyrr getur hún ekki sigrað borgarastéttina. Það verður verkefni þess flokks að brjóta niður endurskoðunarstefnuna, vinna endanlegan sigur á borgarastéttinni og endurreisa alræði öreiganna í Póllandi..."

Lauslega þýtt ur Arbeiðið blað Oyggjaframa i Færeyjum og Gnistan, malgagn SKP

# Atburðurinn í Kutdligssat: Nýlenduveldi í framkvæmd

Hér frásögn frá því, hvernig hið danska nýlenduveldi afmáði námabæinn Kutdligssat af landabréfinu, af því að hann var ekki "arðbær", og hrakti íbuanna inn i nutima fatækrahverfi og atvinnuleysi Godthåbs og Jakobshafnar.

Árið 1968 lýsti danska ríkið því yfir að bærinn Kutdligssat a norðurhluta eyjarinnar Disko, væri oarðbær. Bæinn átti að afmá af landabréfinu og síðustu íbuarnir yfirgáfu hann arið 1973.

Það voru 1400 íbúar í Kutdligssat en í dag er enginn eftir. Íbuarnir höfðu verið fluttir brott á löngu tímabili. Í hopum og fjölskyldum höfðu þau verið sott af strandferðaskipum og siglt til þess staðar sem þau höfðu "kosið" að verða aðflytjendur í, þ.e. annað hvort Godthåb eða Jakobshöfn.

Þær morgunstundir eru orðnar margar þar sem fjölskyldur hafa staðið á ströndinni og beðið eftir skipi og horft a bæinn sem þau hafa alist upp og unnið i, standa auðan og yfirgefinn, þar sem gluggarnir hafa verið negldir aftur með storum plönkum.

## Nauðungarflutningar - hvað er það?

Orðið nauðungarflutningar hefur aldrei verið notað af hálfu hins opinbera. Enginn er nauðugur til þess að flytja. Það sem er gert þegar a að leggja niður afskekkta staði, er að fjarlægja skola, kennara, spitala, lækna, hjukrunarkonur, verslanir, K.G.H. (Hin konunglega danska verslunarsigling) og afgreiðslu á vörum, og á stöðum eins og Kutdligssat að leggja niður námuna, sem var eina framleiðsluvirkni bæjarins. Og svo er hverjum manni frjálst hvort að hann flytur eður ei.

Brottflutningunum frá Kutdligssat var stjornað af bæjargjaldkeranum. Hann átti að skipuleggja komu folksins til bæjanna og sjá um athuganir á busetuskilyrðum, vinnu, launum o.s.frv. En samt sem áður fékk folkið ekki að vita til fullnustu að það ætti að flytja inn í íbuðir i nutima fatækrahverfum sem voru miklu dyrari en það hafði þekkt til aður. Það var ovant því að hafa arstiðabundna atvinnu sem sagt margir kæmu til með að verða atvinnulausir og það myndi yfirleitt lifa mun otryggara lífi heldur en það hafði aður gert.

Bæjarstjornin var á móti niðurleggingu bæjarins en gaf það ekki i skyn fyrr en löngu eftir að fyrsti hopurinn af aðflytjendunum var kominn til bæjanna, og það verður að segjast, að se heldur seint. Þa fyrst var ljost orðið hvað Kutdligssat-íbuunum hafði verið ýtt út í.

Margir af aðflytjendunum komu frá eigin husi með lagri eða alls engri leigu og þeir voru vanir að hafa vinnu allt árið. Þeir fluttu nu inn í leiguhusnæði G.T.O. (Tæknisamtök Grænlands) stora steinkumbalda þar sem aðflytjendurnir eru einangraðir frá hinum íbuunum, i hverfi sem er kallað " Litla Kutdligssat " í Godthåb. Husaleigan er há, 5-6 herbergja íbuð kostar 13oo-14oo dkr. (rumar 40.000.iskr.) og hun er fyrir 12-13 fjölskyldumeðlimi. Heimilismeðlög eru greidd með 5 börnum, en eigirðu fleiri en 5 börn er ekkert greitt með þeim. Launin eru mjög léleg, arið 1972-1973 voru tímalaunin (samkvæmt samningum við Grænlenska vinnuveitendasambandið) 7dkr. (rumar 200iskr.) fyrir ofaglærða verkamenn yfir 18 ara aldri og hjá þeim faglærðu 8dkr. (rumar 250iskr.) þegar vel gengur sem sagt um 25.000. iskr. fyrir dagvinnu a manuði.

## Örlög bæjarins - skipulagning á skipulagsleysi.

Fyrstu hugmyndirnar um að leggja niður Kutdligssat voru settar fram þegar arið 1950. Seinni akvörðunin, um að leggja ætti niður bæinn var fyrst gerð að veruleika 18 arum síðar. Í millitíðinni voru örlög bæjarins meðhöndluð af fleiri mismunandi samþykktum af hálfu rikisstjórnarinnar, m.a. að stofna kolanámunefnd sem 5 árum seinna skilaði niðurstöðum sem mælti ekki með niðurleggingu bæjarins. Óskað var eftir rannsoknum af hálfu Grænlenska Iðnaðarraðuneytisins svo að auðveldara væri að taka ákvörðun. Sú rannsokn for aldrei fram og arið 1950 tok meirihluti kolanámunefndarinnar allt i einu afstöðu með niðurleggingu bæjarins og þessi akvörðun varð rikisins arið 1968. Afstaða meirihluta nefndarinnar var látin raða ferðinni og með samþykkt Grænlenska Landsraðsins var akveðið að leggja niður Kutdligssat. Rekstrarhalli kolanámunnar var tiltakanlega mikill og naman var ekki arðbær. Þrátt fyrir að skyrslur fra starfandi enskum serfræðingi væru jakvæðar og að framleiðslan hafði farið hækkandi jafnt og þett.

## Hvenær verður þessu hætt?

Aðflytjendurnir eru mjög áhrifalítill hopur. Þeir eru yfirleitt andlega niðurbrotnir og afleiðingarnar koma fram í misþyrmingum a börnum, glæpum og mikilli misnotkun afengis. En það eru ekki bara aðflytjendurnir sem eru kugaðir af yfirráðum dananna. Öll Grænlenska þjoðin er orðin fornarlamb á altari dönsku heimsvaldastefnunnar. Hin tæknilega og efnislega þróun hefur ekki gengið nogu fljott fyrir sig og nu hlaðast upp samfelagslegar hliðarverkanir. Eins og stendur i ársskyrslum fra GTO. " Það hefur þo varla verið rangt að utfæra breytingarnar og gera það fljott, aðalvandamalið er hvenær þessu verður hætt ".



Bærinn sem var lagður niður.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

Stéttabaráttan

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
19. tbl. 6. arg. 24/5 1977.



STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




# BSRB: Er rétt að stefna á verkföll í júli

Þann 1. júlí n.k. renna kjarasamningar BSRB út og verður þá frumraun þess "verkfallsréttar"sem opnberir starfsmenn þáðu úr hendi ríkisvaldsins. Hingað til hefur þeim ekki verið heimilt að fara í verkfall og þeir því verið sviptir því beitta vopni í kjarabarattunni sem verkfall getur verið.

Það er bundið í lögum að samningstímabilið skuli vera 2 ár en það er langur tími þegar slík óðaverðbolga geisar. Þess vegna er mikið í húfi að þeir samningar sem samþykktir verða tryggi kjarabætur þær sem nást fram. Hins vegar er ljóst að ríkisvaldið mun ekki ganga að slíkum samningum átakalaust.

NAUÐSYN SAMSTÖÐU

Í þeim átökum sem framundan eru er því mjög nauðsynlegt að það náist viðtæk samtstaða allra félaga innan BSRB. Oft er þörf á slíkri samstöðu en vegna "verkfallsréttarlaganna" er hún beinlínis lífsnauðsyn fyrir opinbera starfsmenn. Ef til verkfalls kemur er sáttanefnd (sem ef að líkum lætur mun fyrst og fremst ganga erinda ríkisvaldsins) ætltlað að leggja fram til atkvæða "sáttatillögu" sem a.m.k. 50% allra opinberra starfsmanna verður að greiða atkvæði um og meiri hluti þeirra að hafna annars verður tillagan að kjarasamningi sem gildir næstu 2 árin.

Það er því nauðsynlegt að tími aðgerða sé rétt valinn. Þannig að aðgerðirnar þvingi ríkisvaldið til samninga og að allir félagar séu meðvitaðir um mikilvægi þeirra og standi fast á þeim kröfum sem settar hafa verið fram. Ef farið væri að lögum gætu opinberir starfsmenn farið í verkfall þegar í júlí ef ekki semst. En hverjar eru líkur á að slíkt verkfall yrði árangursríkt?

TAKMARKAÐUR VERKFALLSRÉTTUR

Þessi margumræddi "réttur" er nú ekki meiri en svo að hann skyldar alla starfsmenn ríkis og bæja til að fara í verkfall í einu. Fyrir vissa hópa opinberra starfsmanna s.s. þá sem vinna við kennslu er verkfall að sumri alveg marklaust því þá eru engir skólar starfræktir. Um mitt sumar eru auk þess margar stofnanir lamaðar vegna sumarfría starfsfólksins. Talið er að a.m.k. þriðjungur allra opinberra starfsmanna taki sumarleyfi sitt í júli. Til að ná til yfir 50% meðlima BSRB þarf að skipuleggja áróður fyrir því að menn taki þátt í atkvæðagreiðslunni um samningana á hverjum vinnustað. En útilokað verður að ná til nema hluta þess fólks sem er í frii til að fá það til að mæta til atkvæðagreiðslunnar. Í versta falli gæti fjarvera eða sinnuleysi þeirra þytt það að ómöguleg "sáttartillaga"teldist samþykkt þar sem ekki næðist 50% kjörsókn þrátt fyrir að meirihluti þeirra sem atkvæða greiddu væru henni andsnúnir. Slíkt má ekki gerast, því er skynsamlegast að fresta verkfallsaðgerðum til haustsins til að þær hafi þann kraft og hægt verði að byggja upp þá virkni sem til þarf.

Að vísu mun slík frestun hafa í för með sér áframhaldandi kjaraskerðingu e.t.v. 2-3 mánuði eftir 1. júli, enda sennilega það sem ríkisvaldið ætlast til (lög kveða á um að gömlu samningarnir skuli gilda þar til nyir hafa verið gerðir eða verkfall skollið á). Af tvennu illu er þo skarra fyrir opinbera starfsmenn að þola slíka skerðingu í stuttan tíma heldur en að fá yfir sig ómögulegan samning sem gilda mun til ársins 1979.



# Pólitískur aróður í skólum

Undanfarið hafa farið fram miklar umræður í ræðu og riti og einnig manna á milli um politiskan aroður i skolum. I framhaldi af þeim umræðum hefur einnig vaknað su spurning, hvaða hlutverki gegna skolarnir. Auðvaldið og þau malgögn sem tulka skoðanir þess eru ekki i miklum vafa um hvert se hlutverk skolanna. Til nanari glöggvunar og froðleiks er rett að taka smatilvitnun i leiðara Morgunblaðsins þann 8.5 s.l.: "... Ahrifamesta leiðin til þess að auka viðsyni nemenda er aukin menntun, haldgoðar upplysingar um staðreyndir. Skoli er ekki aroðursmiðstöð heldur upplysingamiðstöð. Þar a ekki að stefna að hnjaski heldur þroska og menntun. I skola eiga nemendur að sækja þekkingu en ekki skoðanir," (undirstrikanir eru Stettabarattunnar).

Þessi leiðari Morgunblaðsins er skrifaður i tilefni alyktunar aukaþings Felags menntaskolakennara sem samþykkt var 17.4. s.l. en þar segir m.a. orðrett:.."Krafan um að þagað se um hugmyndir sem stangast a við kenningar valdhafa og e.t.v. almannarom felur i ser þa osk um, að skolinn standi vörð um allar babiljur i samfelaginu. En slik osk stangast a við það markmið skolanna að efla domgreind og viðsyni nemenda. Su heimsmynd sem nemendur hafa tileinkað ser allt fra blautu barnsbeini, verður ohjakvæmilega fyrir hnjaski i framhaldsskolunum, þar sem þeir mæta efanum og rökvisinni. Til þess er leikurinn gerður."

Nei, að aliti auðvaldsins og skribenta þeirra a að þroska og mennta, koma með haldgoðar upplysingar um staðreyndir. Finnst ykkur ekki gæta töluverðs osamræmis i skrifum leiðarahöfunda Morgunblaðsins? Hvað eru t.d. haldgoðar upplysingar byggðar a staðreyndum? Skyrslur VSI um astand efnahagsmala og hversu mikið verkalyðurinn eigi að hafa til að lifa a næstu arin? Skyrslur CIA um hverjir seu goðir og vondir i heiminum? Vestrænar frettastofur sem spua lygum og ohroðri um sosialisku löndin og frelsisbarattu 3ja heimsins?

Ja, tilfellið er að þessar upplysingar eru haldgoðar upplysingar byggðar a staðreyndum að aliti leiðarahöfunda Morgunblaðsins. Allar hugmyndir sem koma fram og stangast að einhverju leyti við hugmyndir borgarastettarinnar eru hættulegar og ber að utryma hvar sem þær koma fram, þessi aroður er hættulegur, sem :..."Tiltölulega litill hopur kennara sem hefur eindregnar vinstri sinnaðar skoðanir og hafa valist til kennslu i lykilgreinum eins og þjoðfelagsfræði og nutima bokmenntum" eins og leiðarahöfundur Morgunblaðsins kemst að orði þann 19. 2. s.l.

Allt frá því að börn fara í skóla fyrst 7 ara gömul og þangað til þau ljuka nami eftir 9-18 ara skolagöngu er þeim kennt að astandið sem við buum við i þessu þjoðfelagi, se syo gott að það eigi hvergi sinn lika. Allar bækur sem nemendum er latið i te af skolayfirvöldum tulka afstöðu borgarastettarinnar og rikisvalds þess beint og obeint.

Tökum dæmi um obein ahrif: kristinfræðin. Hun kennir blessuðum börnunum að elska Geir og Gunnar og alla hina pafana i rikisstjorninni. Hun kennir börnunum að ef menn eru orettbeittir, þa eigi þeir bara að brosa vorkunnlega og hugsa: við skulum ekki afellast þa því þeir vita ekki hvað þeir gjöra.

Sögukennsla i skolum gengur öll ut a það að hinn og þessi keisari eða kongur hafa skapað mannkynssöguna, varla er iað einu orði að því að til hafi verið i gegnum aldirnar alþyða sem haði ovægna barattu gegn kugurum sinum rett eins og að i dag berst verkalyðurinn harðri barattu gegn borgarastettinni til að brjotast undan oki hennar.

Skrif Morgunblaðsins um þessi mal er öll a þann veg að reynt er að gera kennara tortryggna i augum alþyðunnar, reyna að æsa fasisra og annan óþjoðalyð upp, þannig að hægt se að utiloka alla kennara sem ekki eru auðvaldinu þjonkanlegir, fra stöðum sinum. Aroðurinn er ekki bundinn við þetta litla sker, heldur þurfa Moggasnáparnir að fara til Danmörku til að benda a að klofningsbrotum Jafnaðarmannaflokknum undir forystu Ehards Jacobsen seu að berjast gegn vinstri aroðr i skolum. Engin skyldi furða sig a því þott "kratar" i Danmörku seu orðnir uggandi um astand mala, því eins og menn vita þa er gifurlegt atvinnuleys i Danmörku og stettabarattan fer harðnandi með degi hverju.

Við skulum ekki gleyma því hverjir studdu Hitler og nasist. hans dyggilegast i því að brjota niður barattum[illegible]erkalyðsins [illegible]933. Það [illegible]tt kratar nir. Þeir e[illegible]og hættulegustu fulltruar borgarastettarinnar innan verkalyðshreyfingarinnar, vegna þess að þeir fela afturhaldseðli sitt bak við glamur og kjaftæði um aukið atvinnulyðræði.

# 1.maí ræða formanns Kommúnistaflokks Íslands

Félagar.

Í yfirstandandi kjarasamningum segist ASÍ-forystan ætla að snúa undanhaldinu í sókn. En í síðustu kjarasamningum var undirritaður inngangurinn að þeim gífurlegu kjaraskerðingum sem nú á að leiðrétta. Eftir þá samninga stöndum við svo illa að vígi að til þess að ná sama kaupmætti og 1974 þurfum við að ná fram mun hagstæðari samningum heldur en bjartsýnustu menn þora að gera sér nokkrar vonir um.

Já, það er bágt ástandið. En á því skyldi enginn furða sig þegar hann lítur yfir afrekaskrá ASÍ-foringjanna undanfarin ár. Hvernig er t.d. með bankann sem þessir menn hafa stofnsett. Þar var fyrir stuttu síðan komið upp um stórfellt svindl og fjárdrátt til nokkurra auðmanna. Út af fyrir sig var þetta nægilega alvarlegur hlutur til að astæða hefði verið til að gera opinbera rannsókn á hlutdeild einstakra verkalýðsforingja í þessu braski. En það sem er því frekar ástæða til að taka eftir er nitt að nu kom i ljos að nær öll útlán bankans voru til auðmanna- og fyrirtækja þeirra. Banki alþýðunnar var sem sagt ekkert annað er aðgöngumiði kapítalistanna að sjóðum verkafólks. Meðan verkafólk lifir nú við hina mestu kjaraskerðingu og alls konar fjármálaerfiðleika eru ýmis stórfyrirtæki rekin á styrkjum úr Alþýðubankanum. Það er því hverjum manni ljóst að þegar ASÍ-forystan svo kölluð afhenti atvinnurekendum lífeyrissjóði verkalýðsfélaganna hér um árið þá var það aðeins upphafið að því sem átti eftir að fylgja í kjölfarið. Við komumst því ekki hjá því að álykta að ASÍ-forystan er gjörsamlega ófær um að leysa vandamál verkafolks í dag. Hún hefur sýnt sig í því að vera leiðitöm fyrir hagsmuni kapítalistanna, en úrræðalaus í baráttu verkafólks fyrir bættum kjörum. Það mætti líka benda á það svona meira til umhugsunar að annar bankastjórinn sem settur var af vegna Alþýðubankamálsins situr nú í samninganefnd ASÍ. Menn geta svo gert það sér til dundurs að meta líkurnar fyrir því hversu líklegur slíkur maður er til að gera hagstæða kjarasamninga fyrir verkafólk. Það sem einnig er ámælisvert við þessa kjarasamninga er það ofurkapp sem hinir svokölluðu "vinstrisinnuðu ASÍ-foringjar" leggja á að blanda saman kjarasamningum og komandi alþingiskosnigumn. Að þessu kveður svo rammt að vart láta þessir menn svo frá sér fara yfirlýsingu um stöðuna að þeir fletti ekki inn í að allt væri þetta nú miklu betra ef þeir næðu nú kosningu í stað þeirra sem nú sitja í ríkisstjórn. Þannig nota þeir verkalýðshreyfinguna til að auka sinn eiginn pólitíska frama. Þeim er meira í mun að koma sjálfum sér fyrir í kerfinu heldur en að berjast fyrir bættum kjörum umbjóðenda sinna. Ástæðan fyrir klofningnum í 1. maí-aðgerðum fulltrúaráðsins var einmitt sú að hægriarmurinn gat ekki sætt sig við að ríkisstjórnin, sem hann er undirgefinn, væri fordæmd. Það voru því ekki hagsmunir og barátta verkalýðsins sem var lögð til grundvallar þegar fulltrúaráð verkalýðsfélaganna kom sér ekki saman um aðgerðir á fyrsta maí. Heldur var það hvort ráðherraembættin ættu frekar að falla hinum svo kölluðu "vinstri" eða "hægri"flokkum í skaut. Hvernig getum við þá vænst þess að ASÍ-forystan geri hagstæða kjarasamninga þegar hún er á kafi í alls konar fjármálabraski og hennar aðalmarkmið er að koma sjálfri sér betur fyrir í kerfinu? Sundrum verkalýðshreyfingarinnar í dag er verk þessara manna sem eru að notfæra sér verkalýðshreyfinguna sem stökkpall til áhrifa og valda innan ríkisvaldsins og annars staðar í þjóðfélaginu.



Gunnar Andrésson

frh. bls. 2